# ÆFISAGA

# JÓNS GÍSLASONAR,

PRÓFASTS OG RIDDARA.

EPTIR

**ÞORLEIF JÓNSSON,**

PRÓFAST Í DALASÝSLU.

---




KAUPMANNAHÖFN 1860.

Í PRENTSMIÐJU *S. L. MÖLLERS.*

**Jón Gíslason** er fæddur 15. dag Decembermánaðar 1766[1] að Svignaskarði í Mýrasýslu. Foreldrar hans vóru Gísli bóndi Jónsson og Guðrún Jónsdóttir, hann var orðlagður á sinni tíð að karlmennsku og spaklyndi. Þau vóru komin af ráðvöndu bændafólki í Borgarfirði, en í framættir af hinum gömlu höfðíngjum landsins. Þá bjuggu þau hjón á móti Sigurði presti Þorleifssyni, sem áður hafði verið prestur að Staðarhrauni. Hann hafði mist þar prestskap fyrir ofsnemma samsængun með konu sinni, og flutzt sama vorið að Svignaskarði. Þessum hjónum átti Jón gæfu sína að þakka; því þegar Sigurður prestur fluttist þaðan árið 1770, og hafði fengið Hvalsnesþíng í Gullbríngusýslu, tók hann barnið með sèr og gekk því síðan í bezta

1) Þetta ártal er eptir æfisögubroti, er hann hefir sjálfur samið, og ber það saman við ágrip það er hann samdi, þegar hann tók prestsvígslu. En eptir skólavitnisburði hans getur þetta ekki komizt heim, því þar er hann árið 1789 talinn 19 ára, og ætti hann eptir því að vera fæddur 1770, en vèr fylgjum hans eigin sögn, sem eflaust mun rèttari.

föður stað[1]. Þar dvaldi Jón hjá fósturforeldrum sínum í þrjú ár, því þá vóru Hrepphólar veittir sira Sigurði, og flutti hann sig þangað í fardögum 1773. Þar var sira Sigurður í 12 ár, þangað til árið 1786, að honum var veitt Hjarðarholt í Dalasýslu, og dvaldi Jón Gíslason öll þau ár heima hjá fóstra sínum. Um úngdómsár hans verður lítið sagt, því í æfisögu ágripi sínu getur hann þeirra lítið, nema að því einu, að fóstri sinn hafi varið allri ástundun, og kostað öllu til að mennta sig sem bezt undir skóla. En af gömlum brèfum sèst, að pilturinn hafi snemma þótt efnilegur og námfús, svo hann þegar á únga aldri hafi sýnt mikla löngun til bókmennta. Af þeim verður það og ráðið, að sira Sigurður hafi komið honum heim að Skálholti, á meðan skólinn var þar, og fengið leyfi Dr. Finns

1) í æfiágripi sínu segir Jón prófastur Gíslason sjálfur þannig frá: „Svo vildi til, að sömu nóttina og eg fæddist, gjörði hastarlega, upp úr logni og hèlufalli, svo ófært veður, að enginn vegur var til að sækju yfirsetukonu þá, sem þar í sveit var almennt brúkuð og foreldrar mínir ætluðu að sækja. Vóru þá ekki önnur ráð en að leita prestskonunnar, svo hún tók mig þá frá skírninni og ól mig upp einsog sitt eigið barn." — Enda kannaðist hann við þenna velgjörníng fósturforeldra sinna, og reyndist þeim einsog bezti sonur þegar þau þurftu með; var samlífi þeirra svo ástúðlegt, að það er að minnum haft enn meðal þeirrar kynslóðar sem nú er uppi í Hvammssveit.

biskups til þess hann væri þar tíma að vetrinum og nyti tilsagnar kirkjuprestsins, eða þá conrectors eptir því sem á stæði. En þó hann hafi þannig dvalið með köflum í Skálholti, lítur svo út sem sira Sigurður hafi mest og bezt unnið að undirbúníngi hans undir skóla tvö seinustu árin sem hann var heima hjá fósturforeldrum sínum í Hrepphólum[1].

Árið 1786 flutti sira Sigurður sig frá Hrepphólum vestur að Hjarðarholti í Dölum, kom hann þá Jóni fóstursyni sínum sama haustið í skólann,

---

1) í æfiágripi sínu segir hann um sira Sigurð: „Me sicut proprium filium educans, inprimis lingvæ latinæ elementis, duos fere annos informavit". Í Skálholti kynntist hann fyrst við Dr. Hannes biskup Finnsson, sem þá var orðinn aðstoðarmaður föður síns, og var það af tilviljun: „Eg var" segir hann „að leika mèr með skólapiltum, og höfðum við komizt í dómkirkjuna, og lètum þar heldur gapalega, þegar við allt í einu vissum ekki fyrr af en einhver kom að dyrunum. Allir þutu til handa og fóta í leynigang, sem lá úr kirkjunni til bæjarins, nema eg; eg fór hægt á eptir, og þegar eg kom á ganginn, fann eg biskupinn og heilsaði honum. Hann spurði mig, hvar eg hefði verið, en eg sagði satt einsog var. Daginn eptir var piltum refsað fyrir það þeir hefði látið illa í kirkjunni, og verið nærri búnir að fella biskupinn, þegar þeir ruddust út, en ýngri biskupinn kallaði á mig og sagði: „„Þú gjörðir rètt að játa frómlega yfirsjón þína, og haga þèr síðan siðsamlega, þú skalt eiga mig að ef lifum"", enda var hann mèr sem góður faðir upp frá því."

sem þá var nýlega fluttur frá Skálholti til Reykjavíkur. Í skóla var Jón einúngis þrjú ár, og var útskrifaður þaðan með góðum vitnisburði af Gísla rector Thorlacius; er vitnisburður hans dagsettur á alþíngi 13. Juli 1789 og prèdikunarleyfi 26. s. m. Meðan Jón Gíslason var í skóla, mun hann ávalt hafa á sumrum haldið til heima hjá fóstra sínum í Hjarðarholti; en eptir að hann var útskrifaður fór hann alfarinn vestur til hans, og tók þá til að stunda bókmenntir, einkum guðfræði; verður það bæði ráðið af brèfum Ólafs prófasts Einarssonar, og einkum af því, að hann hafði jafnaðarlega bækur að láni frá Markúsi stiptprófasti Magnússyni í Görðum. Enda segir hann sjálfur svo frá, að hann hafi snemma fundið, hvað skólamenntunin, sem þá var kostur á að fá í Reykjavík, hafa verið ónóg, og það hafi verið fyrsta verkið sitt, eptir að hann var kominn úr skóla, að útvega sèr með ráði góðra manna hentugar bækur, til að halda því áfram sem byrjað var í skólanum.

Árið eptir að Jón Gíslason kom úr skóla giptist hann (4. Octbr. 1790) Hallgerði Magnúsdóttur prests, Einarssonar sýslumanns í Strandasýslu, Magnússonar sýslumanns í Snæfellssýslu. Tók hann þá við búi í Hjarðarholti af fóstra sínum, eða var fyrir því að mestu, þangað til hann að tveimur árum liðnum tók við því algjörlega, þegar sira Sigurður kallaði hann 1792 sèr fyrir aðstoðar-

prest, og arfleiddi hann og annað fósturbarn sitt — því hann var barnlaus — að öllum sínum fjármunum kvikum og dauðum, með þeim skilmála, að þau sameiginlega stæði straum af sèr og konu sinni meðan þau lifði. Sýndi sira Sigurður í þessu sem öðru, að hann vildi með öllu móti efla fóstурson sinn, og láta honum allt í tè, sem í hans valdi stóð. Hann var búinn að ala Jón Gíslason upp sem eigið barn sitt, kosta hann til menníngar í skóla, og eptirlèt honum nú þriðjúng brauðsins, og alla heimajörðina til leigulausrar ábúðar, einsog sèst af köllunarbrèfi hans dags. 2. Juli 1792. Var því Jón Gíslason vígður um haustið af biskupi Dr. Hannesi Finnssyni 24. dag Septemberm. sama árið. Hefir biskup gefið honum í vígslubrèfinu mikið góðan vitnisburð fyrir lærdóms framfarir; tók biskup einkum fram með lofi ræðu þá er honum var fyrirsett að halda út af 1. Cor. 15, 10. Þó nú liti svo út, sem sira Sigurður væri búinn að fá vilja sinn fram á fóstursyni sínum, má samt sjá það af gömlum brèfum, að honum hefir komið til hugar, að afsala sèr brauðinu sama árið, og treyst því, að fóstursonur sinn mundi öðlast það, ef til vildi, fyrir tilstilli Dr. Hannesar biskups. Þetta drógst samt í tvö ár, þángað til 2. Juli 1794, þá afsalaði hann sèr stað og kirkju, en áskildi sèr þriðjúng brauðsins föstu inntekta, og varð þá sira Jón Gíslason svo heppinn að öðlast veitíngu fyrir

brauðinu, dags. 4. Octbr. s. á., en það var líka nokkrum ókostum bundið: Svo stóð á, að sira Sigurði hafði verið veitt brauðið eptir sira Gunnar prófast Pálsson, sem flosnaði þar upp í harðindunum 1785, vóru þá kirkjujarðirnar komnar flestar í eyði, 30 kúgildi fallin, og prestssetrið að því skapi illa af hendi leyst; þetta var sira Sigurði gjört að skyldu að færa í lag, því honum var boðið brauðið, sem alþekktum búsýslu- og dugnaðar-manni, með því móti, að hann bætti prestakallinu upp það tjón sem það hafði orðið fyrir. Þegar nú sira Sigurður sagði af sèr, vantaði allmikið til, að hann væri búinn að gjöra það, sem hann hafði skuldbundið sig til, því í veitíngarbrèfi sira Jóns fyrir Hjarðarholti er honum gjört að skyldu meðal annars að bæta við 11 kúgildum, sem enn vöntuðu á hjáleigurnar, sem prestsetrinu fylgdu[1]. Þessa skilmála uppfyllti hann trúlega, því á þeim sex ára tíma, sem hann var prestur í Hjarðarholti, hafði hann ekki einúngis bætt prestakallinu kúgildin, heldur og byggt upp tvær eyðijarðir og hresst við hús hinna, sem öll höfðu lasnazt í harðindunum og fellinum 1785. Í Hjarðarholti vegnaði sira

1) Sira Sigurður hafði lagt til frá sjálfum sèr níu kúgildi, en fengið leyfi yfirvaldanna um, að þau þyrfti ekki að vera alls nema 20, og mun hann hafa sagt af sèr með þeim skilmála, að eptirmaður sinn bætti hinum 11 við sem vöntuðu.

Jóni vel á allan hátt, og mun hafa unað þar vel hag sínum, enda var hann þá á fegursta aldursskeiði; en þó mátti hann líða þar þá raun, að missa konu sína Hallgerði á bezta aldri eptir tæpa sex ára sambúð; því hún dó af barnsförum nóttina milli hins 10. og 11. Julimán. 1798, 37 ára að aldri. Var sira Jóni þessi missir því tilfinnanlegri, sem hann mátti þar sjá á bak einhverri hinni gáfuðustu og framtakssömustu konu, því í búsumsýslu og framtakssemi mun hún hafa átt fáa sína líka. Þau höfðu átt saman fjögur börn, það var:

1) Guðrún, fædd 5. Juli 1791, giptist hún Jóni bónda Þórðarsyni prests frá Hvammi í Norðurárdal, og áttu þau saman þrjár dætur: Helgu, Guðbjörgu og Guðrúnu.
2) Helga, fædd 15. Octobr. 1792; hún átti Sigurð bónda Þorbjörnsson frá Lundum í Borgarfirði; þau áttu nokkur börn, sem dóu á únga aldri, nema Sigurðr bóndi í Sælíngsdalstúngu. Hún dó hjá bróður sínum í Hvammi ekkja 7. Aprilmán. 1852.
3) Þorleifur, fæddur 8. Novemberm. 1794. Hann vígðist árið 1819 4. Juli, og varð aðstoðarprestur föður síns, en síðan, árið 1822, aðstoðarmaður hans í prófasts embættinu, og er nú prófastur í Dalasýslu og prestur í Hvamms prestakalli. Hann giptist árið 1824 Þorbjörgu Hálfdanardóttur prests, Oddssonar

prests á Reynivöllum í Kjós. Komust átta börn þeirra til aldrs og var elztur þeirra Jón, er fyrst var prestur í Fljótshlíðar þíngum, en síðan á Ólafsvöllum, og andaðist 13. Febr. 1860.

4) þórunn, fædd 8. August 1797, kona Hannesar prests Árnórssonar, prófasts í Vatnsfirði, er síðan var prestur á Stað í Grunnavík. þau lètu eptir sig fjögur börn og lifa þrjú af þeim. Hún dó árið 1842.

þannig var þá sira Jón Gíslason orðinn ekkill með fjórum úngum börnum, eptir átta ára hjónaband og sex ára prestsskap í Hjarðarholti, svo hagur hans sýndist heldur að verða örðugur og efni að ganga til þurðar. En bráðum hlotnaðist börnum hans aptur ástríkasta móðir og honum ástúðlegasta kona, því árið 1799 14. dag Julim. giptist hann í annað sinn Sæunni, dóttur Einars prests þórðarsonar í Hvammi, og Bjargar, systur Bjarna landlæknis Pálssonar.

þó Jón prestur Gíslason hafi unað vel hag sínum í Hjarðarholti, samt, þegar tengdafaðir hans sira Einar þórðarson í Hvammi hafði fyrir ellisakir sagt af sèr Hvamms prestakalli, og mælt kröptuglega með aðstoðarpresti sínum Jóni Ketilssyni, svo hann fèkk þetta brauð árið 1800: lèt sira Jón Gíslason í Hjarðarholti leiðast til við nafna sinn Jón prest Ketilsson að hafa við hann brauðaskipti, svo hann eptir veitíngarbrèfi dags. 14. Decbr. 1801, flutti í fardögunum 1802 að Hvammi, og mun það

hafa mest knúð hann til brauðaskiptanna, að tengdaforeldrar hans vóru orðin gömul og örvasa, en hann þá nær að rètta þeim hjálparhönd í Hvammi, sem þó ekki þurfti á að halda, því Einar prestur dó 16. Decbr. um veturinn, en kona hans 10. April um vorið, áður en sira Jón kom að Hvammi.

þannig komst þá sira Jón Gíslason að Hvammi í Hvammssveit, og þjónaði hann síðan í þessu brauði sem prestur í 39 ár, fyrst einn og síðan með aðstoð sonar síns, einsog síðar mun sagt verða. Fyrstu árin þar, og ef til vill lengur, mun hann heldur hafa átt erfitt, því bæði var það, að hann vildi sem mestu til kosta, að hressa við prestssetrið, sem mikið hafði gengið til þurðar á seinni árum sira Einars, er bæði var fèlítill og fjörgamall þegar hann sagði af sèr, og annað það, að sira Jón hafði þúngt heimili, því bæði vóru börn hans fjögur úng, og foreldrar hans og fósturforeldrar algjörlega til hans komnir. Sira Sigurður fluttist með honum frá Hjarðarholti ásamt konu sinni og vóru þau hjá honum til dauðadags í Hvammi; var það hvorttveggja, að þau höfðu gengið sira Jóni í foreldra stað, enda gekk hann þeim og í sonar stað, og minntist jafnan fósturforeldra sinna með virðíngu og þakklátsemi.

Sigurður prestur dó í Hvammi 21. Marts 1817, 83 ára, og kona hans 27. April 1818, 98 ára gömul. Foreldra sína hafði sira Jón líka tekið á hans fyrstu

búskaparárum, snauða og örvasa, og stóð hann straum af þeim þangað til þau dóu fjörgömul. Má af þessu ráða, að sira Jón muni fremur hafa átt við erfið kjör að búa, og lítið getað framkvæmt af því, er hann bæði hafði skap og vilja til; þegar menn einnig gæta þess, að hin fyrstu ár aldar þessarar vóru þúngbær landsbúum á margan hátt, harðæri var opt mikið, ófriður í útlöndum og mikill skortur á aðflutníngum. Þeir, sem því áttu örðugt á einhvern hátt, eða höfðu lítið við að styðjast, þóttust gjöra vel, ef þeir gátu með góðu móti haft ofan af fyrir sèr og sínum. Samt reyndi hann þegar, eptir því sem varð, að hressa við hús staðarins og bæta túnið, sem bæði var fallið í órækt og mjög af sèr gengið af skriðufalli og hirðíngarleysi. Um þessar mundir var líka farinn að vakna áhugi einstakra manna með jarðarrækt og garðyrkju; bæði hafði hið danska búnaðarfèlag hvatt til þess með verðlaunum, og líka höfðu stöku menn gengið undan öðrum með góðu eptirdæmi, t. a. m. Magnús Ketilsson sýslumaður í Búðardal og fleiri, en samt var svo ástatt, þegar sira Jón kom að Hvammi, að varla mun nokkurstaðar hafa verið kálgarður á bæ í hans sóknum, auk heldur önnur fyrirtæki til jarðabóta; en hann sýndi með sinni aðferð, að það er satt, að prestsins dæmi megnar mikið, því óðar en hann fór að hressa við hjá sèr, byggja kálgarða, bæta tún og fleira, fóru aðrir

að smátaka það eptir, svo það mun mega með sanni segja, að hann hafi í því, eins og fleiru, gjört mikið gagn á því svæði, sem honum var fengið til umráða.

Af þessu má það ráða, að sira Jón hafi um þær mundir mátt óhætt teljast hinn helzti prestur í hèraðinu, enda völdu prestar sýslunnar hann í einu hljóði til prófasts árið 1816, og er erindisbrèf hans dagsett 5. dag Maimán. það ár[1]. þó hann nú væri þegar orðinn fimmtugur að aldri og þjónaði einhverju hinu örðugasta brauði, lèt hann það ekki aptra sèr frá að rækja þetta embætti með þeirri samvizku- og reglu-semi sem honum var eiginleg, og sanna það enn embættisbækur hans, og brèf þeirra sem yfir áttu að segja, að hann hvervetna með frómlyndi og alúð leysti það af hendi sem honum var fyrir trúað.

Að vísu kom margt það fyrir, sem gjörði honum þetta embætti heldur örðugt og umsvifasamt, og ef til vill, þeim mun örðugra, sem hann

1) í privat-brèfi, sem vèr höfum fyrir oss, skrifar Geir biskup Vídalín honum 12. Mai 1816 þannig: „Af alhuga óska eg bæði yður, mèr og öllum hlutaðeigendum, til lukku og blessunar með prófasts embættið. Þó yður kunni, jafnvel nú strax, að mæta örðug verk og ógeðfeld, tel eg það happ að fá yður í þetta embætti, og álít eg skyldu mína, að gjöra yður það svo lèttbært, sem mèr er kostur á."

ekki ætlaði öðrum það, sem svo langt var frá skapi hans, og átti því bágara með að varast; en það munum vèr samt fullyrða, að hann hafi hvorki þurft að bera kinnroða fyrir þau nè önnur störf sín í embættinu [1]. Samt sem áður sýndi hann, jafnvel á hinum efri árum, að hann var kjark- og þrek-maður, og víladi ekki fyrir sèr að leggja út í nytsöm fyrirtæki, ef hann sá að þau mundi að gagni koma, sem margur í hans sporum mundi hafa vílað fyrir sèr. Vèr höfum getið þess áður, að hann varði öllum kröptum til að hressa við prestssetrið, og sparaði til þess hvorki fè nè fyrirhöfn. Nú varð þetta honum þeim mun lèttara, sem hann hafði fengið aðstoðar mann, þar sem var sonur hans, sem hann hafði tekið sèr fyrir aðstoðarprest 1819, og styrkti föður sinn með ráð og dáð. Vèr megum fullyrða, að árin 1819—24 hafi þeir feðgar sameiginlega varið miklu fè og ekki alllítilli fyrirhöfn til þess, sem lengi mun bera menjar þeirra í Hvammi. Prestssetrið var af sèr gengið og niður nídt, einsog áður er sagt; ekki hafði túngarðs spotti hlaðinn verið, og ekki ein þúfa verið slèttuð, en nærri því þriðjúngur túnsins ónýttur

---

1) Vèr gætum eptir skriflegum skilríkjum fært mörg dæmi þessu til sönnunar; en þau eru þess eðlis, að þau þola ekki, enn sem komið er, dagsins ljós.

af skriðufalli. þetta hafði sira Jón lengi sèð og byrjað að bæta, og á þessum árum heppnaðist þeim feðgum að umgirða túnið, og bæta það svo, að ónýtar urðir urðu nú að töðuvelli. Vèr getum því eigi annað sèð, en að hann hafi verið vel kominn að verðlaunum þeim, sem hið kgl. búnaðar fèlag veitti honum árið 1824, með því að senda honum silfurbikar með ágröfnu letri: „*For fortjenstfuld Jorddyrkning i Island*". þó sira Jón Gíslason gæfi sig þannig mjög við búnaðarefnum og jarðarrækt, getum vèr enganveginn talið hann með þeim prestum, er sökkva sèr með öllu ofan í búnað, en leggja þá minni alúð á hin andlegu störfin; því hann var þvert á móti, og hafði alla tíð verið, miklu hneigðari fyrir bókmenntir en búsumsýslu. Má það ráða af því, að hann varði árlega töluverðu fè til bókakaupa. þjóðverska túngu nam hann þegar í skóla af þýzkum skósmið, er hann var hjá á fæði, en ensku byrjaði hann á gamals aldri að læra, til þess að hafa not af þeim bókum er ritaðar vóru á því máli. þetta mun hafa að sumu leyti hyllt undir það, að hann gaf frá sèr búskap árið 1824, og var hann síðan í húsmennsku hjá syni sínum, sem einnig hafði verið eptir beiðni hans settur honum fyrir aðstoðarmann í prófasts embættinu árið 1822. þó að liti nú þannig út, sem Jón prófastur Gíslason hefði því láni að fagna, mörgum fremur, að geta notið ánægju og rósemi í

elli sinni, og unnið með kyrð að þeim störfum sem honum vóru á hendur falin, og hann ávalt kostaði kapps um að rækja sem bezt, þá fannst honum staða sín enganveginn svo hæg. Aldrei hafði hann efnaður orðið[1], því efni hans höfðu heldur gengið til þurðar hans fyrstu ár í Hvammi, en aukizt; síðan sleppti hann nokkru af tekjum brauðsins við son sinn, og má nærri geta, að tveir menn hafi ekki verið ofsælir af því, sem einum hafði sjaldan áður veitt af. Á hinn bóginn mættu honum einnig, einkum á árabilinu 1830—40, yms aðköst, er honum því síður gat geðjast að, sem hann í öllu rækti vel embætti sitt, enda var hann þá líka kominn á þann aldur, sem flestir kjósa að lifa í ró og friði hjá vinum og vandamönnum, heldur en sjá sig og þá flækta inn í óþarfa umstang og vafnínga. Mun hann því á þeim árum hafa farið því á flot, að losast við prófastsembættið, sem þó ekki varð af fyrr en hann fór alfarinn frá Hvammi.

Árið 1840 hinn 6. dag Januarmán. missti Jón prófastur Gíslason konu sína Sæunni Einarsdóttur. Hún var fædd árið 1753 á Tjörn í Svarfaðardal, var faðir hennar, sira Einar Þórðarson, þar þá prestur, en fluttist þaðan ársgömul með foreldrum

---

1) „Aldrei var eg ríkur", segir hann í æfisögubroti sínu, „nema af blessun Drottins. Hún var mèr allt".

sínum að Hvammi í Hvammssveit, og ólst þar upp hjá þeim til fullorðins ára. Síðan fór hún til móðurbróður síns Ásmundar prests Pálssonar á Auðkúlu í Svínadal, og var þar bústýra hans í 19 ár, þangað til hann dó 1798. Fór hún þá vestur til föður síns og giptist Jóni presti Gíslasyni (1799). Höfðu þau þá lifað saman í ástríku hjónabandi í rúm 40 ár. Hún var orðlögð kona fyrir gáfur, guðhræðslu og góðsemd við alla, enda var hún harmdauði, því henni unnu allir hugástum sem til hennar þekktu. Stjúpbörnum sínum var hún bezta móðir, og sýndi ekki einúngis þeim, heldur og einnig börnum þeirra óþreytanlega ást og umhyggju. Engan gat hún auman litið án líknar, og því hneigðist ekki hugur hennar til að safna auðæfum þessa heims, enda brast hana ekki ráðdeild og hyggilega sparsemi til að verja efnum sínum, til þess að geta látið sem mest gott af sèr leiða. þannig var þá sira Jón orðinn ekkjumaður í annað sinn. Nú var hann búinn að vera í Hvammi undir 40 ár, og hafði unað þar vel hag sínum, en samt sem áður festi hann þar ekki yndi lengur, og sókti á öndverðum vetri 1840 um brauð, er losnaði á Vesturlandi, sem honum þó ekki hlotnaðist; sókti hann síðan um Breiðabólstað á Skógarströnd, sem honum var veittur 23. Januarmán. 1841. Að vísu furðaði margan á því, að hann þannig á gamals aldri skyldi rífa sig upp frá Hvammi; en

það mun sannast er hann segir sjálfur í brèfi til kunníngja síns: „að hann vildi reyna að komast þangað, sem hann gæti haldið aðstoðarprest sem sèr væri ekki vant við; því heldur sem hann vonaði, að sonur sinn fengi Hvamm eptir sig". þetta varð líka orð og að sönnu, því 13. dag Martsmán. sama árið var þorleifi prófasti syni hans veitt brauðið, og tók hann við því af föður sínum í fardögum 1841.

þannig fór þá Jón prófastur Gíslason frá „sínum kæra Hvammi" er hann svo kallaði, og sagði hann svo sjálfur frá, að fátt hefði sèr þýngra fallið, en að yfirgefa, eflaust í seinasta sinni, það heimili og bygðarlag, er honum hafði verið svo farsælt og ánægjusamt á margan hátt, en fara nú nærri 75 ára gamall að fremur örðugu brauði og vera þar mörgum ókunnugur. En þó hann þannig kviði umskiptunum, megum vèr fullyrða, að þau urðu honum ánægjufull og lèttbær. Sóknarmenn tóku við honum báðum höndum, sem æruverðum öldúngi, og kepptust um að sýna honum alla vinsemd og góðvild [1]; sama gjörði og presturinn sem þaðan fór þá í orði og verki. Jón prófastur Gíslason kom 18. Maimán. að Breiðabólstað, og var settur

---

1) Breiðabólstaðar sóknarfólk átti sannarlega þann góða vitnisburð sem þessi orð eru bygð á, og sem Jón prófastur gaf þeim ávalt, það getum vèr sannað með mörgum skriflegum skyrteinum frá hans hendi.

inn í kallið 23. s. m. af Jóni prófasti Guðmundssyni á Helgafelli, en heilsaði sóknum sínum á Hvítasunnudag hinn 30. Sama sumarið 29. dag Septembermánaðar giptist hann einnig í þriðja sinn Mad. Solveigu Eyjólfsdóttur, er fyrr hafði verið kona Gríms prófasts á Helgafelli, en farið til Jóns prófasts um vorið fyrir bústýru, þá hann kom að Breiðabólstað. Vèr getum með sanni sagt, að það hafi verið mikil gæfa fyrir hann í elli sinni, að fá þessarar orðlögðu dugnaðar- og góðsemdarkonu, enda kannaðist hann og við það sjálfur.

þegar Jón prófastur Gíslason hafði einsamall þjónað í tvö ár á Breiðabólstað, treystist hann ekki lengur að vera aðstoðarlaus, og tók sèr fyrir aðstoðarprest Tómás stúdent þorsteinsson 24. Juni 1843, sem þjónaði síðan með honum þangað til hann sagði frá sèr brauðinu. þetta ár hlotnaðist honum sá heiður, að konúngur gjörði hann að Riddara Dannebrogsorðunnar 29. Aprilmán., var hann þá orðinn nýlega Jubil-kennari [1], og veitti þá stjórnin honum líka sama árið 31. d. Junimán. 60 rd. styrk, sem við hèlzt árlega á meðan hann

---

1) Í Septembermánuði 1842 hèlt hann „Jubil-prèdikun" á báðum kirkjum sinum, og lagði út af sama texta og honum hafði verið fenginn til vígsluræðu, fyrir rèttum 50 árum, en það var: 1. Cor. 15, 10 eins og áður er sagt.

lifði. Varð þessi styrkur honum því nauðsynlegri, sem hann nú ekki treystist lengur að þjóna prestsembætti fyrir elli sakir, og afsalaði sèr brauðið að öllu leyti, 31. dag Augustmán. árið 1846, einúngis með þriðjúngi inntekta og lítilfjörlegum hlynnindum að auki; samt þjónaði hann Breiðabólstað með aðstoðarpresti sínum árið eptir, þangað til eptirmaður hans kom í Júlím. 1847, hafði hann þá þjónað prests embætti í samfleytt 55 ár, og á þeim tíma skírt 423 börn, en fermt 224, gefið saman 82 hjón, og súngið yfir 325 dauðum. Auk þessa hafði hann þjónað prófasts verkum í Dalasýslu rúmlega 25 ár.

Þannig var þá loksins kominn sá tími, að Jón prófastur Gíslason gat notið hvíldar eptir löng og örðug störf, og lifað með ró í heiðarlegri elli; enda studdu þá flestir að því, að gjöra honum þúnga elliáranna sem lèttbærastan, svo það mátti segja, að hann á gamals aldri, þegar hann var orðinn sem barn í annað sinn, græddi nýja vini og aðstoðarmenn þegar allir æskuvinir hans vóru löngu á undan honum í burtu horfnir[1]. Þar

---

1) Auk allra sóknarmanna hans, sem jafnan báru hann á höndum sèr, minnist hann í æfiágripi sínu þakklátlega prófasta sinna þau ár sem hann var a Breiðabólstað, er jafnan sýndu honum staka velvild, og umboðsmanns, Þorvaldar Sivertsens í Hrappsey.

að auki var nú hagur hans svo, að hann ekki þurfti að bera áhyggju fyrir lífi sínu, og hafði sem optast þolanlega heilsu. Að sönnu förlaði honum eptir því sem ellin sókti á meir og meir, einkum með heyrn og minni, en samt mátti svo heita, að hann nyti þeirrar heilsu hin seinustu árin, sem sjaldgæf er á níræðis aldri, svo að jafnvel seinasta sumarið sem hann lifði talaði hann með venjulegri ástúð, glaðsinni og fjöri við vini sína og vandamenn er til hans komu, skrifaði og las eins og hann var vanur, sem dagbækur hans ljóslega votta. En seint í Octoberm. 1853 fann hann til lasleika, sem hann hafði áður nokkrum sinnum þjázt af, sem var hægðaleysi og snertur af steinsótt; varaði það í hálfan mánuð, þó lètti honum í Novemberm. svo hann var þjáníngarlítill, en varð þó vegna vanmáttar að halda við rúmið venju fremur. Um áraskiptin var hann aptur hressari, en þó ávalt við og við þjáður af hinu sama. Í Februarmánuði leit svo út sem honum væri að smálètta, svo hann fann ekki mikið til áðurnefndra veikinda. En þó fór einsog hann árið á undan hafði sagt í brèfi til vinar síns: „að sálin vildi til heimkynna sinna frá hreysinu, sem þá og þegar væri horfið í skaut móður vor allra", því 17. Februarm. fann hann til máttleysis og kvefþýngsla fyrir brjóstinu, sem varaði í þrjá daga, þángað til hann 20. dag sama mánaðar 1854 sofnaði út frá þessu lífi með hægu andláti án

nokkurra sjáanlegra þjáninga; hafði hann þá lifað 87 ár, 2 mánuði og 6 daga, og sem prestur þjónað 55 ár, en þar af líka sem prófastur 25 ár.

Jón prófastur Gíslason var með hærri mönnum, rèttvaxinn og þrekinn, einkum á hinum efri árum. Fríður var hann sýnum og andlitið skapfellilegt. Svipurinn var hreinn, og augun blíðleg og glaðleg. Hann var bláeygður og smáeygður. Ennið var hátt og yfirbragðið mannborlegt. Kinnbeinin lágu nokkuð hátt, nefið í minna lagi og hakan nokkuð breið. Hann var varaþunnur og munnnettur, og lèk ávalt einsog bros á vörunum. Kríngluleitur var hann og í meðallagi stórleitur. Holdugur var hann í andliti og litarfagur jafnvel til elliára; var það, einsog allur líkaminn, hraustlegt og vottaði góða heilsu. Hárið var framan af æfi hans ljósleitt, en á eldri árum silfurhvítt. Aldrei varð hann sköllóttur og hafði mikið hár og þykkt til dauðadags. Sjón hafði hann ávalt hina beztu, og það svo, að hann gat jafnvel hið síðasta ár lesið og skrifað nafn sitt gleraugnalaus. Söngróm hafði hann í betra lagi og söngeyra gott, var hann því bæði í stól og fyrir altari einhver hinn röggsamasti klerkur. Með öllu hina ytra vakti hann þannig virðíngu og var hinn öldurmannlegasti; en auðmýkt og blíða hjartans skein jafnan út úr svipnum, sem ávann elsku og góðan þokka.

Gáfur hans vóru dágóðar, en greindin enn betri.

Hugurinn var fjörmikill og nokkuð ör, einsog geðsmunalagið. Frá æsku hafði hann verið hneigðari fyrir bókmenntir og andleg störf en líkamlega vinnu, og þó hann mestan hluta æfi sinnar hefði ekki gott færi á, að gefa sig við vísindalegum störfum, vóru þau ávalt hans mesta yndi. Skólamenntun hans hafði ekki verið mikil, en því fremur jók hann svo það sem á brast, þegar hann var úr skóla kominn, að hann mátti af gömlum prestum teljast eflaust með hinum menntuðustu á sinni tíð. Guðfræði stundaði hann jafnan með innilegri alúð. Í latínumáli var hann, einsog margir af hinum eldri Íslendíngum, ágætlega að sèr, og skrifaði hann það mál mjög snoturt, bæði í bundinni og óbundinni ræðu [1], og svo var hann fróður í hinum fornu ritum Rómverja, að hann jafnvel á elliárum kunni utan að heil kvæði eptir Horatius og Ovidius skáld. Guðfræðina stundaði hann, eins og áður er sagt, með svo mikilli alúð, samvizkusemi og vandlæti við sjálfan sig, að hann skrifaði jafnan nýjar ræður til elliára; því þó hann opt og tíðum ekki prèdikaði beinlínis eptir blöðum, mun hann aldrei hafa óviðbúinn í stól farið, svo hann hafi

1) Eptir hann liggur talsvert safn af latínskum ljóðmælum við ýms tækifæri. Nokkur hefir hann líka látið prenta í tímaritum, þó vèr getum ekki nafngreint nema tvö í Skírni árið 1833, bls. 100, og 1835, bls. 115.

ekki skrifað niður inntak ræðunnar og haft það fyrir sèr, til þess að útlistunin yrði með því skipulegri og greinilegri. Í ræðum sínum tók hann sèr fremur snið eptir hinum ströngu guðfræðíngum fyrri hluta 18. aldar, heldur en þeim sem uppi vóru um og fyrir næstu aldamót. Hann var gagntekinn af helgi og dýrmæti biblíunnar, vóru því ræður hans eingöngu biblíulegar, en fráleitur öllum heimspekilegum rannsóknum, og öllum keim seinni tíma skynsemistrúar. Eins og trúræknin bjó með auðmýkt og einfeldni í hjarta hans, svo vóru einnig orðin sem hann talaði í kirkju sinni, en ekki vantaði hann þar röggsemi og vandlæti; studdi að því frómlyndi hans og hinir öru geðsmunir, að hann dróg ekki dulur á það sem í hjartanu bjó. Af þessu má ráða, að hinn enski prestur Dr. Henderson muni hafa satt að mæla, þar sem hann segir um sira Jón Gíslason: „Þegar eg kom inn til hans, var ritníngin fyrir framan hann, og komst eg að því, að hann var mjög biblíufróður; var þar fyrir postullegur andi og trúrækni" [1].

Það sem hann gaf sig mest að, næst guðfræðinni, var sagan. Var hann því, einsog margir hinir eldri Íslendíngar, mjög fróður í sögu Íslands og ættfræði. Á ýngri árum hafði hann komizt yfir

1) Samanber Ferðabók hans Edinburgh 1818, II, 81-82 og J. Möllers Nyt theol. Bibliothek 15. bindi.

nokkur söfn í þeim greinum, sem hann mun í elli sinni hafa látið til kunníngja sinna. Sjálfur mun hann og hafa safnað nokkru, en eptir hann hefir ekki fundizt annað, sem vèr höfum orðið varir við, heldur en: „Um jubilkennendur á Íslandi frá endurbót trúarbragðanna til vorra daga", þetta verk byrjaði hann á seinustu árum sínum í Hvammi, og hætti við það aptur, eins og hann segir sjálfur, af því hann heyrði að annar maður var byrjaður á samkynja starfi; en hver hann hafi verið vitum vèr ekki, því ekki mun hann meina safn Dr. Finns biskups um það efni, er Mag. Hálfdan Einarsson getur um (sbr. Sciagr. Hist. lit. Isl. bls. 151). Samt nær þetta safn yfir allt land, en vantar sumstaðar inn í, einkum þann kafla sem er um presta á Austurlandi. Einnig safnaði hann jafnframt til „prófasta tals á Íslandi" um sama tíma, en það nær að eins yfir Austurland og Kjalarnesþíng.

Af prentuðum ritum liggur ekki eptir hann til muna; það var hvorttveggja, að hann var ekki í þeirri stöðu, að hann gæti heldur en aðrir hans líkar látið prenta bækur, enda sá hann að tíminn var kominn á undan sèr, sem hann hvorki gat nè gaf um að hlaupa með. Málið var búið að taka aðra stefnu en á menntunarárum hans. Hið gamla snið, er sómdi sèr á 18. öldinni, var nú orðið einsog

fatasniðið í augum hinnar ýngri kynslóðar [1]. Samt er eptir hann ein ritgjörð í „Ármanni á Alþíngi, um að afla innlends fræs af káltegundum", og ritlíngur „Um haganlegustu kirkna byggíngar", sem hann lèt prenta á sinn kostnað í Kaupmannahöfn 1837, og útbýta gefins meðal allra presta og kirkna-eigenda á landinu, í þeim tilgangi, segir hann í brèfi til Steingríms biskups, að einhver kynni að hafa not af því sem reynslan hefði kennt sèr; enda hefir sira Tómas Sæmundsson haft sama álit, þar sem hann minnist á rit þetta í Fjölni 1838 bls. 50. Að vísu kann mörgum að sýnast það stórt í ráðizt, þar sem höfundurinn í ritlíngi þessum hvetur menn til að byggja steinveggi að kirkjum; en hann ætlaði að sýna með sínu dæmi, að það væri ekki með öllu ófært, því árið 1838 hjálpaði hann duglegum manni til utanferðar, sem ætlaði að læra smíðar, í því skyni, að hann einnig lærði aðferð Dana að höggva grjót og byggja hús af þeim efnum; líka útvegaði hann manni þessum 100 rd. styrk hjá stjórninni til að kaupa fyrir verkfæri. Reyndar treystist hann ekki til, þegar maðurinn kom, að byrja sjálfur með kirkju sína, því bæði skorti þá fè, þegar hvorki fekkst lán nè styrkur

---

1) Vèr viljum enganveginn með þessum orðum kasta skugga á hina lofsverðu viðleitni að bæta mál vort núna á seinni árum.

úr opinberum sjóðum, en steintegund sú, er þolir að höggvast, var ekki þar að fá, nema svo lítil og langt í burtu, svo hann varð að láta sèr nægja með það, að láta manninn gjöra tilraun, sem sýndi, að þetta mætti vel takast[1].

Þó að Jón prófastur Gíslason væri nú hneigður fyrir bókmenntir og vísinda iðkanir, var hann engu að síður ötull og framkvæmdarsamur, einkum á hinum ýngri árum. Sparaði hann ekkert til þarflegra fyrirtækja, og var hinn hugaðasti, að leggja jafnvel út í það, sem sýndist vera efnum hans og kröptum ofvaxið, einsog ráða má af því sem áður er sagt um jarðarbætur hans í Hvammi. Lèt hann hvorki vana nè aldarhátt letja sig, heldur fór jafnan sínu fram, hvernig sem öðrum fèllst á. Með þessu móti safnaði hann ekki fè, því heldur sem hann var örlátur við alla, gestrisinn og góðvildarsamur. Það var hans mesta yndi að gjöra aumum gott, því hann gat ekkert aumt sèð; var það því einatt, að hann valdi heldur þann kost, að þarfnast sjálfur einhvers, heldur en sjá aðra fara synjandi, sem þörfnuðust hins sama, enda var hægt að fylla þarfir hans, því hann var hinn sparsamasti

---

1) Hús sem fyrir nokkru er byggt á Vesturlandi á líkan hátt, eins og hann hafði hugsað sèr að byggja kirkjur, sýnir enn fremur, að það er ekki ógjörníngur til sveita á Íslandi.

maður í aðbúnaði og klæðaburði, og hafði óbeit á glíngri og prjáli þessarar aldar. Hann var einhver hinn samvizkusamasti maður í öllu, og það jafnvel í smámunum. Embætti sitt rækti hann því jafnan með stökustu alúð, og vildi verja til þess fè og fjörvi, að hvað eina væri sem bezt af hendi leyst. Í öllum viðskiptum við aðra var hann því hinn hreinskiptnasti maður, og kom hvervetna fram með einlægni og frómlyndi í smáu og stóru. Vèlabrögð og hrekki eða slægvizku gat hann því sízt af öllu varast hjá þeim er töluðu annað í eyru en á bak, því hann þekkti það ekki í sínu fari. Blíður var hann í skapi og jafnan hinn glaðasti, fjörmikill á hinum ýngri árum, og nokkuð bráðlyndur þegar hann mætti mótgjörðum, en jafnan hinn sáttgjarnasti og friðsamasti maður, því það var fráleitt honum að gjöra á annara hluta, eða áseilast nokkurn mann vísvitandi; því lèt hann optast heldur eptir sinn rètt, en leita hans með þrasi eða illdeilum, þareð hann vildi sízt af öllu eiga í deilum; vogum vèr því að segja, að hann hafi verið hugljúfi allra góðra manna, en sigrað suma af hinum með góðu.

Eins og Jón prófastur Gíslason var hinn vandaðasti maður í öllu dagfari, svo var hann einnig hinn guðhræddasti. það var ekki hræsni eða yfirskyn, heldur innileg trú og staðföst von, sem ávalt bjó í sálu hans leynt og ljóst. Brèf hans og dag-

bækur[1] sýna það ljóslega, og margar þær ráðstafanir sem hann gjörði í leyni til að efla hið góða, sýna, að það sem hann einnig opinberlega gjörði gott, var komið fra hjartanu[2]. Einsog líka

---

1) Minnisblöð hefir hann daglega skrifað til hins seinasta mánaðar sem hann lifði, og sýna þau alstaðar ljóslega hans trúarsterku og guðhræddu sálu, því heldur sem þesskáttar blöð bera með sèr, að þau áttu ekki að koma neinum fyrir sjónir, og gátu því ekki skrifuð verið í fordildar skyni.

2) Vèr setjum hèr „Testamenti", er hann hefir skrifað í Hvammi 14. Septbr. 1829, það lýsir manninum nokkuð og kemur heim við sögu vora hèr á undan:

1) Tilskipa eg óumbreytanlega — ef eg dey hèr í Hvammi eða verð híngað fluttur til greftrunar, — legstað við hægri síðu, þegar gengið er inn í garðinn um hliðið sem til staðarins veit, út við garðinn innan gamallra grundvallarsteina hans, og þar sè síðan yfirgert sterklegt af grjóti. Líkkistan óska eg væri viðhafnarlaus, en sterk og trúlega smíðuð. Útför mín sè fyrir utan alla viðhöfn, engin líkræða eða líkprèdikun. Presturinn til líksaungs sè sá fátækasti í hèraðinu og fái ómakslaun fjórar speciur eður þeirra virði. Líkmenn sex ærlegir dándismenn sveitarinnar af mèr óútnefndir, og hafi hver fyrir sitt ómak eina speciu eður hennar fullt andvirði. Ef fátækir kynni að koma minn greftrunardag, vil eg þeim sè gjörður góður greiði og fylgi líki til grafar.

2) Konu mína hjartkæra Sæunni Einarsdóttur fel eg fyrst og fremst guði á hendur, og þarnæst rèttvísum háyfirvöldum, að hún fyrir þeirra tilhlutun haldi sínu náðarári, það er að skilja þeim hluta inntekta brauðsins sem eg nú hefi; en kapelláninn því sem hann

prófastur sira Einar Sæm. Einarsen fór þar um sönnum orðum í sinni snotru líkræðu við jarðarför hans að Breiðabólstað 4. dag Martsmán. 1854.

---

haft hefir, unz brauðið er veitt; en þareptir tíunda parti í skileyri af allri prestakallsins vissu inntekt, og öllum öðrum fríheitum sem allranáðugasta Rescr. af 5. Juni 1750 tilgreinir.

3) Áskil eg að kona mín, sem með staðfestu gjafabrèfi hefir testamenterað mèr og börnum mínum sína fjármuni, mætti óáreitt af þessum sínum stjúpbörnum og þeirra svaramönnum behalda okkar sameiginlegu litlu fjármunum föstum og lausum.

4) Ætla eg til að ekkjan Anna Magnúsdóttir, sem hefir okkur með trú og dygð þjónað, skili ekki við konu mína meðan þær lifa báðar, einsog nefnd ekkja hefir mèr heitið; en þar í móti vona eg, að þeir ærurikustu af mínum erfingjum meðan hún lifir og þarf á að halda, annist hana.

5) Áskil, að börn mín sem nú lifa annist Guðrúnu Jónsdóttur, sem lengi og vel fóstra mínum sál. þjónaði, eptir minn dag, og láti henni ekki miður líða en meðan eg var heill á hófi.

6) Það flýtur af sjálfu sèr, að kona mín — siti hún í óskiptu búi — svarar til allra fullsannaðra vitaskulda, og ver þartil angurlaust okkar sameiginlegu litlu fjármunum; og

7) Þar eg hefi ekki — þó á þurfi að halda — útnefnt henni nokkurn svaramann, þá ætla eg til hún sjálf ráði því, hver hann verði, sannfærður um það, að allir góðir og dygðstundandi menn muni vel reynast slíkri konu, hvað eg líka að lyktum bið Guð almáttugan þeim að endurgjalda."



